A. C. Luplan:

# Um jarðepli.

Rv. 1850.

# Nokkur orð

um

# JARÐEPLI,

æfi þeirra, yrkingu og nytsemi,

og

fáeinar varúðarreglur móti jarðeplasýki.

Eptir

**A. C. LUPLAN.**

---

**Magnús Grímsson**

hefur íslenzkað.



---

**Reykjavík 1850.**

Prentað í prentsmiðju landsins

á kostnað E. Jónssonar.

# Innihald.

1. Einkennislýsing jurtarinnar Solanum tuberosum, Linneé.
2. Almennur inngangur.
3. Skipting í snemm- og síðgróin jarðepli.
4. Lýsing kyngreina þeirra í flokkum þessum, sem í Danmörku eru yrktar.
5. Æfi jarðeplanna.
   a. Jarðvegur.
   b. Sáning jarðepla.
   c. Undirbúningur jarðvegarins og plæging.
   d. Sáningartími.
   e. Áburður.
   f. Harfan.
   g. Útsáning jarðepla.
   h. Hreyking.
   i. Þroskunartími jarðeplanna og meðferð þeirra úr því.
   k. Hvernig geyma skal jarðepli á vetrum, svo þau skemmist ekki.
   l. Not jarðepla til manneldis og fyrir fóður handa peningi.
   m. Hversu miklu betra er að sjóða jarðepli í gufu en í vatni.
   n. Not jarðepla í brauð, mjöl og til brennivínsgjörðar.
   o. Rjett not jarðepla fyrir fóður handa peningi.
6. Algeng nöfn jarðepla í hjeruðum (Provindser) Danaríkis.
7. Fáeinar varúðarreglur móti jarðeplasýki.



## Jarðepli[1] (*Solanum tuberosum, Lin.*).

Rótin á jurt þessari eru margir hnöttóttir eða aflangir, rauðir, gulir, hvítgulir eða svartleitir hnúðar (kólfar), stórir og smáir, sem hanga á henni á þráðmynduðum rótartaugum. Jurtarleggurinn er beinn, limaður, rauðdílóttur, hornhliðaður (strendur), laufgaður, tveggja eða þriggja fóta á hæð. Laufin standa á víxl á leggnum, og eru með tönnum, sem ekki eru jafnar til beggja randa. Smáblöðin eru 5 eða 7, nærri því kringlótt, eins og kubbuð að framan, hærð; hin minnstu eru mjó niður við legginn, hin stærstu eru ydd á ytri enda. Laufaleggirnir liggja þjett niður með aðalleggnum. Blómaleggirnir eru jafnlangir laufunum; á þeim sitja 3 eða 6 rauð, blá, hvít eða gulleit blóm.

---

[1]) Á dönsku heitir jurt þessi Kartoffel. Vjer ætlum að kalla hana jarðepli, þó það sje raunar nafnið á rót hennar, en ei á jurtinni allri.

Duptbernarnir eru samgrónir, og ávöxturinn er tvíhöfðað ber með mörgum frjókornum.

Jurtin á heima í syðri hluta Vesturálfu, í Perú, en tímgast nú um alla Norðurálfu.

Árið 1565 flutti mansalinn Hawkins hin fyrstu jarðepli til Norðurálfunnar; kom hann með þau frá Ný-Granada, í syðri hluta Vesturálfu til Írlands. Tuttugu árum síðar kom hinn nafnfrægi Franz Drake með jarðepli frá Virginíu til Englands. Um 1590 urðu þau kunn á Ítalíu, en svo gekk útbreiðslu þeirra treglega, að árið 1616 voru þau lögð á borð Frakka konungs og hirðar hans, eins og einn hinn sjaldgæfasti matur. Um 1720 fluttust þau til Þjóðverjalands, 1726 til Svíþjóðar og 1743 varð einhver Þýðverji til að flytja þau til Danmerkur.

Smásaman hafa ræktun, loptslag og jarðvegur fætt af sjer margar kyngreinir (Afarter) jurtar þessarar, sem ræturnar undan eru orðnar svo algeng fæða fyrir menn og fóður handa peningi. Á Englandi, þar sem jurt þessi er nú yrkt með mestri alúð og athuga, eru kyngreinir jarðeplanna þegar orðnar milli 60 og 70 að tölu, og hver annari í einhverju frábrugðin. En varla eru þær þó allar saman kyngreinir í raun og veru, sem aðgreina megi hverja frá annari, því naumast mundu þær halda einkunnum sínum í hverjum jarðvegi,

eða undir hverju himinbelti, sem vera skyldi, eða þegar opt væri búið að sá þeim út. Slíkar kyngreinir jarðepla, sem allt af halda einkunnum sínum, verða varla fleiri en 16 eða 18, og þær eru þó svo líkar hver annari, að það er torvelt að þekkja þær ætíð að.

Kyngreinum jarðeplanna er skipt í *snemm-* og *síðgróin jarðepli* (Tidligmodne og Sildigmodne).

Helztu kyngreinir flokka þessara, sem mest eru yrktar í Danmörku, eru:

## A. Snemmgróin jarðepli.

### 1. Stór, löng, gul jarðepli (*S. tuberosum flavum*).

Þau eru sljett utan, löng, nokkuð dígur í annan endann, en nærri hvöss í hinn. Blómin eru skjallahvít. Þau eru almennt yrkt í Danmörku, einkum þó á Jótlandi og mest á Alheiðinni. Þau blómgast í júním., eru fullþroska í lok júlím. eða byrjun ágústm.; þeim er sáð út í marzm. eða fyrst í aprílm, eptir veðráttunni.

### 2. Ensk jarðepli (*S. tuberosum anglicanum*).

Blómin eru fjólurauð. Rótarhnúðar þessarar kyngreinar eru hnöttóttari en hinnar fyr töldu, og nokknð flöt, og þykja bragðbetri en hin stóru, löngu, gulu jarðepli. Í Danmörku eru þau helzt yrkt á Fjóni, en eru nú að verða algengari. Þau eru fullþroska í júlímánaðar lok eða byrjun ágústm., þeim er sáð út um sama leyti og hinum fyr nefndu.

### 3. Hvít, gul, sljett jarðepli (*S. tuberosum album*).

Rótarhnúðarnir eru sumir hnöttóttir, en sumir flatir. Blómin eru hvít. Kyngrein þessi er frjófsamari, en hvað hún er bragðgóð. Yrkt er hún víðast hvar í Danmörku, en þó mest á Sjálandi og Amager. Ef veður leyfir, er henni sáð út í marzm., eða þá snemma í aprílm. Blómguð er hún í lok júním. og fullþroska í júlím. eða fyrst í ágústm.

### 4. Svínamagar (*S. tuberosum magnum*).

Rótarhnúðarnir eru býsna stórir og slær á þá rauðleitum blæ. Þeir eru allir dröfnóttir eða dílóttir og eru fullir af votu mjöli; þeir eru því óhollir peningi, ef honum er gefið of mikið af þeim. Blöðin eru dökkgræn, gljáandi og dálítið hrukkótt. Þeim er sáð út um sama leyti og hinni næst á undan töldu kyngrein, og eru mjög frjófsamir. Þessi kyngrein er alstaðar yrkt í Danmörku, og höfð fyrir fóður handa peningi, en þó eru hin rauðu jarðepli í meira afhaldi.

## B. Siðgróin jarðepli.

### 1. Rauð jarðepli (*S. tuberosum rubrum*).

Þessi kyngrein er mjög frjófsöm og einkar gott fóður handa peningi. Þegar hin rauðu jarðepli spretta af fræi, þá er rótin rauð bæði að utan og innan, en þegar þau síðan spretta af rótarhnúðunum, þá fer rauði liturinn innan í þeim smátt og smátt af. Blómin eru ýmist hvít eða rauð. Þeim er sáð út í lok aprílm. eða fyrst í maím., en ekki seinna; fullþroska eru þau í októberm. Rauðu jarðeplin eru helzt yrkt á stórbúum Dana.

### 2. Írsk jarðepli (*S. tuberosum longum-album*).

Blöðin eru dökkgræn og sljett, blómin smá og hvít. Kyngrein þessi er frjófsöm og bragðgóð. Henni er sáð út í aprílm., og er fullþroska í októberm. eða fyrst í nóvemberm. Hún er almennt yrkt í Danmörku, en þó einkum á Amager.

### 3. Stór jarðepli, hvít, rauðdröfnótt (*S. tuberosum maculatum*). (Howards jarðepli).

Jurtarleggurinn er sterkur mjög; blómin eru fyrst rauð, en verða síðan dröfnótt. Að innan eru rótarhnúðarnir með rauðum dílum eða blettum. Þessi kyngrein jarðepla er frjófsöm mjög og hið ágætasta fóður handa peningi. Henni er sáð út í aprílm., og er fullþroska í októberm. Hún er í Danmörku mest yrkt í hertogadæmunum.

### 4. Kastaníujarðepli (*S. tuberosum castanum*).

Kastaníujarðepli eru smæst allra jarðepla, og undir eins bragðbezt allra þeirra. Jurtarleggur og blöð eru mjórri og smágjörfari og liturinn ljósgrænni en á hinum kyngreinunum. Blómið er lítið og himinblátt á lit. Rótarhnúðarnir eru jafnan smáir, ójafnir, hnöttóttir, hreinir og nærri því gagnlýstir á röndunum. Kyngrein þessi er fremur ófrjófsöm. Henni er sáð út í byrjun maím., og er fullþroska í októberm. Hún er almennt yrkt í Danmörku.

Enn er ein kyngrein, sem kölluð er: **Hnöttótt-rauð jarðepli** (*S. tuberosum rotundum rubrum*); en af því þessi jarðepli eru

lík hinum rauðu jarðeplum í öllu nema því, að rótarhnúðar þeirra eru hnöttóttari, þá eru þau víst af þeim komin. Þessi jarðepli verða einungis nokkru fyr fullþroska en hin. Þau eru yrkt bæði í hjeruðum Danaveldis og hertogadæmunum, og eru höfð fyrir fóður handa peningi.

---

Allar þær kyngreinir jarðepla, sem hjer eru taldar, mæla meira eða minna fram með sjer, allt eptir þeim tilgangi sem hafa verður við yrkingu þeirra. Til manneldis eru *kastaníu-jarðeplin* og allar hinar *smáu, löngu* og *gulu jarðepla kyngreinir* beztar. Fyrir fóður handa peningi eru einkum þær kyngreinir teknar, sem frjófsamastar eru, helzt hin *rauðu* jarðepli. Hin *stóru, hvítgulu* jarðepli eru bezt til mjölgjörðar.

Jarðepli spretta vel nærri því í hverskonar jarðvegi, sem vera skal; þó gefa þau mestan ávöxt og verða bragðbezt í vel sandborinni moldu. Í leirblönduðum jarðvegi bera þau minni ávöxt, en eigi verða þau þar þó bragðverri. Í mjög mykjubornum jarðvegi, fenum og mýrum, kalk- og gibsborinni jörðu verða þau bragðverri. Yfir höfuð þurfa jarðepli fremur magran jarðveg, og þess vegna er nýrótuð jörð, sem ekki hefur verið borið á, hentugust fyrir þau, eða sú jörð, sem árið fyrir hefur verið tödd og sáin. Bezt er að taka sjer garðstæði handa jarðeplum haustið áður en þeim skal sá, og stynga

upp, og snúa grasinu á hverjum hnaus niður, svo það um vetrartímann nái að fúna. *Hvítu jarðeplin* mega ekki vera í mjög votsamri jörðu, og hin *rauðu* ekki í mjög þurri, en fyrir öll jarðepli þarf jarðvegurinn að vera stunginn upp og losaður 10 til 12 þumlunga djúpt.

Jarðeplum er ýmist sáð í beð í görðum, eða í stórar ekrur. Þegar þeim er sáð í garða í beð, þá er hægast að pæla upp jarðveginn með páli eða reku. Eru þá jarðeplin látin ofan í holur, sem gjörðar eru í beinum röðum eptir snúru, þannig, að þrjár holur mynda jafnarmaðan þríhyrning og skal 1 alin vera milli hverrar holu og 8 álnir milli raðanna. Fljótlegast er, að tveir sjeu við sáninguna, og annar láti jarðeplin ofan í holurnar, en hinn búi þær til með reku, sem ekki gengur lengra niður, en holurnar skulu vera djúpar. Moldin úr fyrstu holunni er lögð til hliðar, en úr því kastar sá, sem holurnar gjörir, moldinni af rekunni í næstu holu á undan ofan á jarðeplið, sem í hana var lagt. Sje nú jarðeplakyngrein sú góð, sem höfð er til útsáðs, og jarðvegurinn hæfilegur og vel undirbúinn, þá má hjer vænta 20, 30 eða 40 faldrar uppskeru. Þegar þar á móti sáð er í heilar ekrur, mega menn varla gjöra sjer von um meir en 16, 20 eða mest 30 falda uppskeru. Jarðvegurinn er þá undirbúinn með plógi og harfi eða einhverjum

öðrum þar til gjörðum akuryrkjutólum. Það hafa menn reynt, að í hverjum jarðvegi, sem vera skal, eru tvær plægingar og tvær harfanir nægar, til að fá hina beztu uppskeru, sem unnt er í þeim eða þeim jarðvegi. Jarðvegurinn er þá plægður um haustið, en harfaður snemma næsta vor, svo er hann látinn vera eina eða tvær vikur, og er síðan plægður aptur, og eru þá jarðeplin um leið lögð í þriðja hvert plógfar. Þetta er gjört eptir veðráttunni annaðhvort í lok aprílm. eða í byrjun maím. Sje grasivaxin jörð tekin til þessa eða jörð, sem árið fyrir hefur tödd verið, þá er áburðurinn ónýtur, og ef til vill, skaðlegur. En standi svo á, að á verði að bera, þá skal áburðurinn vera vel fúinn og ekki borinn á ekruna fyr en eptir harfanina, og þá skal plægja þegar á eptir. Þegar jarðeplagrasið kemur upp, skal harfa ekruna annað sinn, bæði þvert og endilangt, til þess að eyða með því illgresi, og losa jarðveginn.

Jafnvel þó að þessi aðferð sje bæði hin einfaldasta og rjettasta, og hinir beztu akuryrkjumenn ráði til hennar, og hún hafi heppnazt vel í Danmörku, þá þarf þó að gjöra við hana ýmsar smábreytingar, eptir því sem landslag, jarðvegur, veðrátta og ýms akuryrkjutól heimta.

Það er ýmist sáð heilum jarðeplum, eða

stykkjuðum, öngum, rótaskotum eða fræi. Algengast er tvennt hið fyrst nefnda; fræið er miður notað en skyldi. Lengi hefur verið efi á hvort betra væri að sá heilum jarðeplum eða stykkjuðum, þannig, að hvert stykki hefði eitt eða fleiri augu. Reynslan er með hinu fyrra, og tilraunir manna sýna, að betra mun, að sá heilum jarðeplum. Samt sem áður gengur hálfu eða meira en hálfu minna til útsæðis, þegar jarðeplin eru stykkjuð, en þess ber að gæta að stykkin verði ekki of smá, og augun sjeu ekki mjög ber. Þegar sá skal í heilar ekrur, er þetta nauðsynlegt, en ef sáð er í garða í beð, þá er vissara að sá jarðeplunum heilum. En við báðar aðferðirnar er það aðgætandi, að jafnan skal velja hin stærstu jarðepli og beztu til útsæðis; þessa er, því miður, opt og einatt ei gætt. Smæstu jarðepli hverrar kyngreinar eru jafnan ófullkomnust, og gefa því minnsta og lakasta uppskeru. Þegar jarðeplin eru stykkjuð, þá er bezt að breiða stykkin út og viðra þau nokkra daga, áður en þeim er sáð. Við það kemur húð á þau, sem hlífir þeim við of skjótum fúa í moldinni. Þegar jarðeplin hafa skotið öngum, áður en þeim er sáð, þá má skera þá af, og leggja marga af þeim í eina holu. Með því sparast útsæði, því jarðelpinu sjálfu (angamóðurinni) má sá í aðra holu. Eins má og brjóta jarðeplaleggina burtu, þegar þeir

erú orðnir 5 eða 6 þumlunga háir, og setja þá niður annarstaðar, einn og einn sjer í holu. Jarðeplið, sem leggurinn var brotinn af, er eins frjófsamt eptir og áður, og getur þetta opt orðið mikill hagur. Ei að síður eru þessar tvær síðast nefndu aðferðir lítt notaðar. Þegar allt af er sáð jarðeplum sömu kyngreinar ár eptir ár, þá verður kyngreinin eptir 8 eða 10 ár búin að missa einkenni sín, og með ári hverju missir hún bæði í smekk og frjófsemi. Til að ráða bót á þessu eru Danir vanir að fá ný jarðepli frá Englandi eða Hollandi, og yngja þeir þannig jarðeplakyngreinir sínar upp, þegar þeim þykir þörf á því. En sjálfur getur maður líka yngt jarðepli sín upp, og enda bætt þau, með því að sá fræi, og ætti enginn bóndi að slá slöku við það nokkurt ár. Til þessa eru lesin saman berin af beztu jarðeplunum, þegar þau eru fullþroska, og lögð á hæfilega hlýjan stað, til þess þau þroskist sem mest. Þau fara þá að ólga, og undir eins og vökvi þeirra fær vínkynjað bragð, þá eru þau kreyst sundur með höndunum, fræið þvegið í vatni, þurkað undir beru lopti, og geymt síðan til útsæðis. Þegar nú sá skal fræinu í byrjun maím., þá er það blandað með sandi, og sáð í 3 þuml. djúpar rákir í vel undirbúinni jörðu; eins fótar bil skal vera milli rákanna. Þegar jurtin er orðin nokkurra þumlunga há, er henni sáð út,

eða sett niður með hæfilega löngum millibilum, eða þá, ef nóg er til af útsæði, er óþörfu jurtunum fleygt burt, svo ekki verði of þjett í beðinu. En of þjett er í beðinu, ef ekki er 9 eða 10 þumlunga rúm autt á alla vegu kringum hverja jurt. Að öðru leyti er með þær farið eins og önnur jarðepli, og illgresi má ekki þolast í kringum þær. Á þriðja ári bera þær góðan ávöxt, og 8 eða 10 árum síðar halda þær sjer óskemdum, þegar þeim er jafnan sáð í góða jörð, og stærstu og beztu rótarhnúðarnir eru ætíð teknir til útsæðis.

Þegar jarðeplaleggurinn er orðinn 6 þuml. hár, skal hreykja þeim. Í beðinu er þetta gjört með hreykijárni, og er moldinni sem bezt hreykt upp með leggnum, og illgresið um leið numið burt. Á stórum ökrum er það gjört með hreykiplógi, sem ekið er þvert og endilangt milli allra raða, svo að moldin rótast upp báðumegin að leggnum. Hreykja skal jarðeplum að minnsta kosti tvisvar, og optar, ef þörf er á.

Þegar jarðeplaleggurinn fer að gulna og fölna, þá eru jarðeplin fullþroska, og skal þá taka þau upp þegar, því upp frá því vaxa þau ekki meira. Í beðum er þetta gjört með reku eða spaða, en á ekrum með plógi. Þegar búið er að taka jarðeplin upp, þá eru hin sködduðu látin sjer, og hin síðan aðgreind; hin

stærstu og beztu eru tekin frá, og geymd til útsáðs næsta ár.

Það liggur nú næst fyrir búmanninn, að bera umhyggju fyrir, að geyma jarðeplin óskemmd um veturinn; ef þau frjósa verða þau hvorki höfð til manneldis nje handa peningi. Til að fyrirbyggja, að jarðepli frjósi, er vanalegast að geyma þau niðri í þurum og rakalausum kjallara, eða grafa þau 4 eða 5 feta djúpt í sand niður, og þekja þau með þuru heyi eða laufi. En þessu verður ekki ætíð nje alstaðar komið við. Það hefur því verið stungið upp á tveimur öðrum aðferðum til að geyma jarðepli, og hafa báðar vel heppnazt. Önnur aðferðin er, að láta jarðeplin í körfur, og drepa þeim síðan nokkur augnablik ofan í sjóðandi vatn; breiða síðan jarðeplin á þann stað, sem súgur er, svo þau geti fljótt þornað, og geyma þau síðan í svölu lopti, og hræra þar iðuglega í þeim með reku eða trjespaða. Hin aðferðin er enn óbrotnari, jarðeplin eru þá látin á vel þuran stað, þar sem sól skín mjög á þau, og súgur er nógur. En við það missa þau í frjófgunarafli sínu, og verða hrukkótt utan. Þannig geymast þau allan veturinn, án þess að skemmast, eða verða bragðverri.

---

Það er enginn efi á, að af öllum kunnugum matjurtum eru jarðeplin lang notamest í bún-

aði manna; því auk þess, að þau eru svo al geng, eins og allir vita, þá er og álitið, að nytsemi þeirra sje 6 eða 10 sinnum meiri en af nokkurri korntegund, sem menn þekkja. Það sem einkum veitir jarðeplunum fyrirrúm fyrir öllum korntegundum er það, hvað þau eru á vaxtarsöm, hvað þau þrífast vel, hvað þau eru frjófsöm. Þau misheppnast mjög sjaldan, og hafa enn það ágæti, að þeim er svo óhætt fyrir skemmdum af veðráttu eða loptslagi, og pöddur og ormar leggjast varla nokkurn tíma á þau. Í staðinn fyrir, að þau gjöri jarðveginn magrari, eins og korntegundirnar og aðrar jurtir með smáum rótum gjöra, þá er það víst, að þau bæta hann; þess vegna má sá jarðeplum 12, 15 eða fleiri ár í röð í sama reit, án þess að frjófsemi hans minnki við það, en með korntegundir fer fjærri, að svo megi að fara. Enn hafa og jarðepli það fram yfir aðrar matjurtir, að nytsemi þeirra er svo margskonar og mikil í búi manns, bæði til manneldis og fyrir fóður handa peningi.

Efni jarðeplanna, er *vatn, mjöl* og einskonar *slefja (þykkur vökvi, seigur, sem er nærri því óuppleysanlegur,* glutton). Í einu pundi af jarðeplum eru 24 eða 25 lóð af vatni, 7 eða 8 lóð af mjöli og 1 eða 2 grön af slefju. Af þessu má sjá hvað til þess kemur, að jarðepla mjöl er 4 eða 5 sinnum drýgra, og hefur í sjer 4 eða 5 sinnum meira næringarefni en jafn mikið af heilum jarðeplum.

Til manneldis eru jarðeplin höfð annaðhvort heil eða möluð. Stundum er jarðeplamjöli blandað saman við annað mjöl og haft í brauð. Stundum er líka soðið af þeim brennivín.

Þegar jarðepli eru soðin heil, þá ætti jafnan að sjóða þau í vatnsgufu; því þau missa mikið í bragðgæðum við það, að vera soðin í vatni. Til þessa þarf engin sjerstök áhöld. Það þarf ekki annað, en láta jarðeplin í sígil, og setja hann svo ofan í pottinn, en þó ekki ofan í vatnið í pottinum. Síðan er potturinn byrgður vandlega, og soðna þá jarðeplin fljótt í gufunni, sem leggur upp af vatninu. Bæta má nokkuð bragð jarðepla, sem í vatni eru soðin, með því, að hella vatninu undir eins af þeim, og strá yfir þau hnefafylli af salti, og setja þau svo á eptir dálitla stund yfir eldinn; því, að jarðepli verði bragðbetri við það, að missa nokkuð af vatni sínu, sjest bezt af því, hvað steikt jarðepli eru bragðbetri en soðin.

Hægasta aðferðin til að búa til jarðeplamjöl eða jarðeplagrjón, er þessi: jarðeplin eru soðin í vatnsgufu. Má þá, er mikið skal sjóða, hafa tágakörfur í staðinn fyrir sígilinn, sem vjer nefndum hjer að ofan. Stærð körfunnar fer eptir stærð pottsins, sem hafa skal. Í pottinum er látið vera svo sem 2 eða 3 þumlunga djúpt vatn. Þar er karfan sett yfir, og má vatnið ekki ná botni hennar; hún

er fyllt með jarðepli. Potturinn er nú þakinn sem bezt með dúkum og klæðum, svo engin gufa komist upp um hann. Vatnið er nú látið bullsjóða í pottinum, og eptir 30 mínútur eru jafnvel hin stærstu jarðepli fullsoðin. Þá er lokið tekið af pottinum, og karfan upp, en önnur karfa látin í hennar stað, og svo búið um sem áður. Þessu er haldið áfram svo lengi sem þörf er. Himnan er nú tekin af hinum soðnu jarðeplum. Síðan eru þau marin með sívölum trjevalta, löguðum eins og trafakefli (jarðeplavalti). Deigið er nú lagt í 2 eða 3 þumlunga þykkt lag á lausriðna tágavoð, sem að utanverðu eru brúnir umhverfis, svo deigið renni ekki út af. Þegar nógu margar tágavoðir eru komnar með deigi á, eru þær látnar inn í bakaraofn, sem þá má ekki vera heitari, en hann er vanur að vera, þegar brauðin eru tekin út úr ofninum. Vel má hlaða tágavoðum þessum hverri ofan á aðra, en 3 þumlunga bil verður þó að minnsta kosti að vera á milli þeirra. Ofninum er nú þegar lokað, svo deigið þorni þess fyr, en súghol verður að vera á honum, til þess að gufan geti rokið út. Sje ekki súghol á ofninum, þá má láta hurðina vera svo mikið opna, að gufuna geti lagt út. Því fljótar sem deigið þornar, án þess þó að stikna eða brenna, þess hvítara verður mjölið. Þorni deigið seint, þá verður það bragðverra, deigið

dökkara og mjölið grátt. Undir eins og hættir að rjúka úr deiginu, og það brakar á milli fingranna, þá eru tágavoðirnar teknar út úr ofninum, jarðeplin látin kólna, og síðan troðið niður í tunnur eða sekki. Þegar maður hefur nóg af þessum þurkuðu jarðeplum, þá má mala þau, hvort heldur vill í grjón á þar til gjörðri kvern, eða í mjöl á almennri kvern. Jarðeplamjölið heldur jarðeplabragðinu; það verður haft í brauð og hvað annað, sem mjöl annars er haft í. Það fer miklu minna fyrir því en heilum jarðeplum, og er því miklu betra að geyma það, og flytja en heil jarðepli. Það heldur sjer vel, og geymist óskemmt ár út og ár inn, einungis ef það er ekki látið vera í raka. Ormar leggjast ekki á það, og eigi kemur í það ólga. Þegar jarðepli eru höfð í brauð, er vant að taka þau heil, eptir að búið er að sjóða þau í vatnsgufunni, hýða þau, merja og hnoða svo saman við rúgmjöl, sem sje helmingi meira að vigt. Ágæti slíkra brauða er mest í því fólgið, að þau eru miklu fegurri útlits, smekkbetri, og — það sem mest er vert — að þau geymast 5 eða 6 sinnum betur en brauð úr tómu rúgmjöli.

Jarðepli eru nú og með góðum árangri höfð til brennivínsgjörðar. Það er tekin 1 tunna af malti, og látin í 10 tunnur af jarðeplum, soðnum í vatnsgufu og mörðum, síðan er hellt

á vatni á vanalegan hátt, og hleypt ólgní allt saman með tilbúinni ólgulyf, svo er brennivínið brennt án meiri undirbúnings. Úr einni tunnu af beztu jarðeplum fást 20 pottar af sex mælistiga brennivíni, og tekur það brennivín hinu bezta kornbrennivíni af hveiti fram, bæði að smekk og tærleika.

Jarðepli má enn fremur hafa fyrir fóður handa peningi. Öll tamin dýr jeta jarðepli og þrífast vel af þeim, einknm, ef þeim er ekki gefið of mikið af þeim, eða þá annað fóður stundum. Til þessa má hafa hvort sem vill hrá eða soðin jarðepli, en vel þurfa þau að vera hrein. Sjeu þau hrá, þá verður að merja þau sundur eða brytja. Það þykir víst, að soðin jarðepli, helzt þau, sem í gufu eru soðin, sjeu betur nærandi en þau hráu, og það vinni sig því upp að sjóða þau. Svín eru sólgin í jarðepli og fitna ákaflega af þeim, helzt ef jarðeplin eru blönduð korni, undir það þeim er hleypt úr stíu. Kýr mjólka vel af jarðeplum, en ekki mega þær fá of mikið af þeim, því það hefur stundum ollað kúm sýki. Nóg er að gefa nauti 5 skeppur jarðepla á dag og kú 3, þegar þeim er líka gefið nokkuð með af heyi. 16 pund af jarðeplum er nóg á dag fyrir tvo hesta, og sparast við það helmingur fóðurs. Handa sauðkind er 1 pund af heyi og 3 pund

af jarðeplum nóg á dag. Jarðepli má og hafa handa alifuglum.

Á Englandi eru jarðepli mjög notuð fyrir fóður, og er það siður hinna beztu búmanna þar, að blanda þau jafnan með einhverju öðru fóðri. Handa nautum hafa þeir saman við þau brauðmjöl eða olíukökur o. fl., og er þá 3 mán. tími nægur til að feita nautið. Handa kúm og áburðarhestum eru jarðeplin blönduð með skornum hálmi, handa reiðhestum með sáð; svínum einum eru þau gefin tóm.

---

Nú er að segja hvaða nöfn kyngreinir þær, sem hjer eru taldar, hafa í hjeruðum Danaveldis.

1. Stóru, löngu, gulu jarðeplin kalla Jótar *stór, löng jarðepli.*

2. Ensku jarðeplin eru á Fjóni og víðast hvar, þar sem þau eru yrkt, kölluð ýmist *ensk* eða *gul jarðepli.*

3. Hvítu jarðeplin gulu eru á Sjálandi og Amager alstaðar kölluð *hvít,* eða *mjölug* (melede) *jarðepli.*

4. Svínamagar halda nafni sínu, þar sem sú kyngrein annars er yrkt.

5. Írsku jarðeplin eru kölluð *löng, hvít jarðepli.*

6. Stóru, hvítu, rauðdílóttu jarðeplin eru

í hertogadæmunum ýmist kölluð *rauðflekkótt* eða *Howards jarðepli.*

7. Kastaníujarðeplin hafa haldið nafninu óbreyttu; þó eru þau sumstaðar kölluð *fín borð-jarðepli, sumar - og sykurjarðepli.*

8. og 9. Löngu rauðu, og hnöttóttu rauðu jarðeplin eru alstaðar kölluð *rauð jarðepli.*

---

## *Fáeinar varúðarreglur móti jarðeplasýki.*

---

Jafnvel þó hjer sje gjört ráð fyrir þrítugföldum ávexti jarðepla á ekrum, er það þó í rauninni sjaldgæft á seinni tímum vegna jarðeplasýki þeirrar, sem farin er að ganga. Það má ætla að 1 tunnu land, sem er 14000 □ álnir gefi af sjer 80 eða í mesta lagi 120 tunnur jarðepla, og sje jörðin ekki góð, gefur það opt ekki meira af sjer en 60 eða 70 tunnur með 5 tunna útsæði.

Það er sannreynt, að það má hvórki viðra nje sólbaka jarðepli þau, sem hafa skal til útsæðis, af því þeim verður við það hættara við sýkinni, heldur geyma þau á þurum stað í dimmu. Ekki má heldur hluta þau sundur, og þurka síðan, nje drepa þeim niður í sjóðandi vatn, nje hafa þau þar á veturna, sem

sól og súgur kemst að þeim, svo lengi sem á jarðeplasýkinni ber.

Reynslan hefur sýnt, að kastaníujarðeplunum er hættast við sýkinni, og, að til að komast í veg fyrir hana, má ekki hafa nema tæplega hálfrar álnar bil milli holanna, þegar sáð er, því það ver sýkinni nokkuð. Þeim er því sáð svo þjett, sem má, til þess rúm sje til hreykingar. Ef jarðvegurinn er góður, þá þarf ekki nema eina plægingu og tvær harfanir.

Meðan að jarðeplasýkin gengur, er ekki ráðandi til að brjóta jurtarlegginn af rótinni, og setja hann niður annarstaðar. Þar að auki verða og færri rótarhnúðar undir þeirri jurt, sem leggurinn var brotinn af. Þar sem hjer að framan er sagt, að yrkja megi jarðepli 12, 15 eða fleiri ár í röð á sama reit, þá er aðgætandi, að það verður því að eins, að á reitinn sje borið á ári hverju. Góðir jarðyrkjumenn halda þó meira upp á, að sá sínu hvort ár í sama reit.

Mjólkin verður mjög þunn úr kúm þeim, sem eru fóðraðar á jarðeplum; hestar verða feitir og fagrir af jarðeplafóðri, en þróttlausir.

---

# PRENTVILLUR.

2. bls. 5. l. a. n.: jarðeplaí les: jarðepla í
13. bls. 10. l. a. o.: óskemdum les: óskemmdum
15. bls. 1. l. a. o.: al les: al-
5. bls. 6. l. a. o.: á les: á-

